# Vidtektir

þess

## íslendska evangeliska smárita-félags.

1. Tilgángur þess er einúngis sá, ad upplífga trúna á heimsins frelsara í lesendanna hjörtum, þá trú, sem ávaxtarsöm sé af gódum verkum. Hvar fyrir öll þessa félags rit skulu stefna ad þessu adal-augnamidi.

2. Ritin skulu vera mestann part útleggíngar hinna bestu rita, frá útlendskum félögum, er hafa þad sama augnamid.

3. Ritin skulu vera smá, svo eckert einstakt kosti meira enn 4 skilda, en flestöll minna. Ef stærri bækur uppleggjast, skal þad ské eptir sérligu samkomulagi medlimanna.

4. Hver sem géfur svo mikid allt í einu, sem kosta þarf til 1 arks útgáfu ad öllu leiti uppá 800 til 1000 exemplaria, sá skal heita félagsins æfarandi adal-medlimur.

5. Hvør sem gèfur, á sama hátt, til hálfs arks útgáfu, heiti þess **æfarandi medlimur.**

6. Hvør sem árliga gèfur til fèlagsins svo mikid sem svarar hálfum ríkisbankadal í nafn-verdi, sè, medan því tillægi framheldur, þess **regluligur medlimur.**

7. Hvør sem safnar collectu til fèlagsins í einni kyrkju-sókn til 3ia edur 4ra ríkisbánkadala árliga, skal fá í fèlagsins ritum, aptur betalada þá somu, til gèfins utdeilíngar, og heita þess **vel-gjørandi medlimur.**

8. Hvør sem kaupir og betalar árliga frá 10 til 20 exemplør, af fèlagsins heilu árs útgáfu, til ad selja edur gèfa út aptur, heiti þess **ad-stodar medlimur.**

9. Hvør sem ad eins kaupir árliga eitt exemplar, af allri fèlagsins útgáfu, heiti þess **undir-skrifari.**

10. Þess fleiri exemplør, allt ad tuttugu, sem einn kaupir og árliga betalar, med þess betra verdi fær hann hvørt eitt, edur annarskostar þad ellefta hvørt gèfins.

11. Heidurs-medlimi hafi félagid rétt til ad útvelja, fyrir nockra sérdeilis merkiliga ad-stod synda til þess eflingar.

12. Skyldi félagid med tídinni græda nockurn töluverdan afgáng af útgiftum sínum, skal rádstöfun hins sama ské, eptir þess vitrustu og bestu medlima atqvædum.

13. Reikníngur fyrir inntekt og útgyft félagsins, skal, nær mögulígt er, afleggjast og þess medlimum framvísast.

14. Hollar rádleggíngar til þessa félags eflíngar, frá hvörjum þeim, sem er þess augnamids sannur velunnari, umbidjast alúdliga og medtakast þacklátliga.

---

Kaupmannahöfn 1818.
Prentad hiá Þorsteini E. Rangel.